# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

9. árg. WINNIPEG, JANÚAR 1895. Nr. 11.

## Jólasólin.

Sungið á sunnudagsskóla-samkomu í Fyrstu lút. kirkju í Winnipeg 30. Des. síðastl.

1. Er sól kyssir fjöllin
um fyrstu dags stund
og strýkr svo völlinn
með vekjandi mund,
ei gleymum, að sólin,
er gefr oss jólin
í byggð vora' og bólin,
er inndælli' en allt.

2. Er sól kveðr völlinn
og við honum hlær
og ljósshjúp um fjöllin
svo fagnandi slær,
ei gleymum, að sólin,
er gefr oss jólin
í byggð vora' og bólin,
er inndælli' en allt.

3. Er jól boða fögnuð
í fátœklings bœ,
þótt frost sé á foldu

og feiknir um sœ,
vér finnum, að sólin,
er flytr inn jólin
í byggð vora og bólin,
er inndælli en allt.

4. Ef ljós hvert oss felst, það
er ljúfast oss skein,
og allt annað hverfr
en hrellingin ein,
þá biðjum, að sólin,
er blessar oss jólin
og byggð vora' og bólin,
ei hverfi' oss úr hug.

E. H.

## „Skattskriftin“ og Kýreníus.

Svo sem kunnugt er, byrjar frásaga guðspjallamannsins Lúkasar um fœðing Jesú (jólaguðspjallið) á því, að geta um manntal, er Ágústus keisari bauð að tekið skyldi um heim allan. Og gjörir guðspjallamaðrinn um leið grein fyrir því, hve nær þetta manntal fór fram í Gyðingalandi með þessum orðum, eftir því, sem í síðustu íslenzku biblíu-útleggingunni stendr: „þetta manntal varð fyrst þá Kýreníus var landshöfðingi á Sýrlandi“ (Lúk. 2, 2). Eins eða hér um bil eins er vers þetta að meiningunni til í flestum eldri biblíuþýðingum á öðrum tungumálum[1]. En samkvæmt frumtextanum gríska ætti versið heldr að hljóða svo á vora tungu: „þetta var hið fyrsta manntal, sem fór fram, þá er K. var landshöfðingi á Sýrl.“ Og þannig er þetta útlagt í endrskoðuðu biblíunni ensku („*This was the first enrolment made when Quirinius was governor of Syria*). Af rómversku sögunni er kunnugt, að Ágústus keisari lét aftr og aftr taka almennt manntal í hinu víðlenda ríki sínu, og voru manntöl þessi höfð að undirstöðu fyrir skattgjaldi því, sem hin

1) Í gömlu Guðbrands-biblíu (frá 1584) er hið um rœdda vers þannig þýtt: „Og þesse skattskrift hofst fyrst upp hia Cyrino, sem þa var landstiornare i Syria“.

ýmsu lönd, fylki og höfðingjadœmi, er lutu rómverska keisaranum, skyldi inna af hendi í alríkissjóð. Fyrir þessa sök er manntalið, sem getið er um í jólaguðspjallinu, í hinum eldri biblíu-útleggingum vorum kallað *skattskrift*, og út af því orði leggr séra Mattías Jokkumsson í jólasálmi sínum í sálmabókinni, sem byrjar svo: „Af heimi skattskrift heimtuð er“. Hinir fornu sagnaritarar geta að minnsta kosti um þrjú slík allsherjar manntöl, er farið hafi fram í hinum rómverska heimi á ríkisstjórnartíð Ágústusar keisara og eftir skipan hans: hið fyrsta einum þrem árum eftir að þjóðveldið rómverska féll og Ágústus kom til ríkis; annað tuttugu árum seinna eða nálægt þeim tíma, er frelsarinn fœddist, og hið þriðja tuttugu og einu ári þar á eftir eða rétt áðr en Ágústus féll frá (árið 14 e. Kr.). Manntal það, er Lúkas getr um og stendr í sambandi við jólaguðspjallið, fer fram þá er Kýreníus er landshöfðingi í Sýrlandi. þetta þótti lengi ervitt úrlausnar fyrir þá sök, að að eins var kunnugt, að þessi maðr var landshöfðingi yfir Sýrlandi frá árinu 6 til 11 e. Kr. Tók hann við skattlandi þessu ásamt þeim hluta Gyðingalands (Júdeu og Samaríu), sem Arkelaus, sonr Heródesar gamla, hafði ráðið yfir, eftir að hann var rekinn þar frá völdum. Gekkst Kýreníus þá ásamt fylkisstjóra þeim, er hann setti yfir Júdeu, fyrir því, að manntal væri tekið þar í landinu, til þess að samkvæmt því yrði nýr skattr krafinn af almenningi í nafni yfirstjórnarinnar rómversku. Vakti þetta almenna óánœgju meðal Gyðinga og jafnvel voðalegt upphlaup. En þetta manntal fór sem sagt of seint fram til þess að það með réttu geti orðið sett í samband við fœðing Krists. Og voru þá sumir hræddir um, að söguleg villa væri hjá Lúkasi í þessu atriði. En ráðgátan hefir í seinni tíð verið leyst með því, að mjög sterkar líkur hafa verið fœrðar fyrir því,að Kýreníus hafi tvisvar verið landshöfðingi yfir Sýrlandi, nefnilega frá árinu 6 til 11 e. Kr., eins og áðr var kunnugt, og áðr um fjögra ára tíma, er byrjaði sama árið og Kristr fœddist. Um þetta mál hefir einna fullkomnast ritað lærðr þjóðverji, A. W. Zumpt, í bók einni um „fœðingarár Krists“, sem út kom í Leipzig 1869, og hefir niðrstaða sú, er hann hefir þar komizt að, almennt verið viðrkennd síðan. Beinlínis hefir Kýreníus ekki staðið fyrir manntali því, er fram fór í Gyðingalandi um það leyti, er frelsarinn fœddist,

heldr Heródes, sem þá enn hélt þar konungdœmi í skjóli rómverska keisarans. En Lúkas knýtir samt nafn Kýreníusar við þann atburð fyrir þá sök, að þegar hann í síðara skiftið hafði landstjórn yfir Sýrlandi á hendi, þá fullkomnaði hann manntal það, er Heródes hafði taka látið og gjörði það að fullkominni „skattskrift", það er að segja: krafði um leið inn ríkisskatt af Gyðingum eins og hverju öðru rómversku skattlandi. Og með því að segja, að manntalið, sem sett er í samband við jólaguðspjallið, hafi verið „hið fyrsta manntal, er fram fór, þá er K. var landshöfðingi á Sýrl.", virðist einmitt af Lúkasi vera minnt á annað manntal (eða önnur manntöl), er seinna hafi farið fram.

K ý r e n í u s (eða Kyrenios) er hið rómverska nafn Q u i r i n i u s í grískri mynd eða með grískri stafsetning. Maðrinn hét fullu nafni *Publius Sulpicius Quirinius* og var fœddr í Lanuvium, latneskum bœ skammt frá Rómaborg. Árið 12 f. Kr. gjörði Ágústus hann að ræðismanni (consul), og skömmu síðar var honum veittr opinber heiðr fyrir ötula framgöngu í hernaði í Litlu Asíu. Herforingjadœmi það, er hann þá hafði á hendi þar eystra, bendir á, að hann einmitt á þeim tíma hafi verið landstjóri í Sýrlandi. Seinna var hann í fylgd með Cajus nokkrum, ungum manni, dóttursyni keisarans, svo sem ráðsmaðr hans, austr í Asíu, og þótti hann standa svo vel í þeirri stöðu, að Ágústus veitti honum hið sýrlenzka landshöfðingjadœmi til launa, en þar með fylgdi þá suðrpartr Gyðingalands (Júdea og Samaría), þar sem Arkelaus var nú þaðan út rekinn. Og hóf Quirinius þá hina óvinsælu „skattskrift" sína meðal Gyðinga, eins og áðr er sagt. Quirinius kom sér einnig í mjúkinn hjá stjúpsyni Ágústusar, Tíberíusi, er settist í keisarasætið að Ágústusi látnum (árið 14 e. Kr.), og þegar Quirinius dó (árið 21 e. Kr.), gekkst Tíberíus fyrir því við ráðið rómverska, að honum væri veitt hátíðleg útför á ríkiskostnað. Maðrinn sýnist hafa haft all-mikla hœfilegleika sem herforingi, en sem landstjóri beitti hann hlífðarlausri harðýðgi og kúgan við þegna sína, og af prívatlífi hans láta hinir fornu sagnaritarar mjög illa.

## Séra Páll Þorláksson.

Rœða, flutt á Mountain 30. Okt. 1894 af séra FR. J. BERGMANN.

---

Vér komum hér saman í dag til að halda þann atburð hátíðlegan, að reistr hefir verið minnisvarði á gröf séra Páls heitins Þorlákssonar. Það eru að mínu áliti fáir Íslendingar, sem eiga það betr skilið en hann, að minnisvarði sé reistr á gröf þeirra.

Hann stendr í huga mínum einstakr og út af fyrir sig meðal hinnar yngri kynslóðar þjóðar vorrar. Hœfileikar hans voru að ýmsu leyti einstakir og óvanalegir. Stefna hugarfarsins, — lífsstefna hans, allt önnur en hin vanalega. Kærleikrinn til þess málefnis, sem hann helgaði líf sitt, miklu heitari og eftir allt öðru sniði en flestra annarra íslenzkra presta.

Skólamenntan sína fær hann í Reykjavík og útskrifast af latínuskólanum með bezta vitnisburði. Svo finnr hann upp á því að fara hingað til Ameríku á undan öðrum Íslendingum. Sú ferð hans verðr orsökin til þess, að tiltölulega sterkr útflutningsstraumr hefst frá Íslandi, sem helzt við þann dag í dag, án þess nokkur sjái fyrir endann á honum.

Hingað kominn snýr hann sér að því að lesa guðfrœði. Hann hverfr til einnar hinnar allra merkustu guðfrœðisstofnunar meðal lúterskra manna hér í landinu,— skólans í St. Louis. Hann sezt þar við fœtr þess manns, sem líkastr hefir verið hinum voldugu hetjum siðabótarinnar allra manna á þessari öld, — hins gáfaða, andríka, brennheita lúterska guðfrœðings, dr. *Walthers*. Þarna er hann í þrjú ár. Það er haft á orði, að fáir menn muni hafa lesið og hugsað með annarri eins áfergju eins og hann, þessi þrjú ár, og slógu menn þar þó ekki slöku við um þær mundir.

Ýmsir hafa ímyndað sér, að guðfrœðisskóli þessi hafi eiginlega gjört hann þann mann, sem hann var. Að vísu er það satt, að skólinn og um fram allt sá, sem um þetta leyti var lífið og sálin í þeim skóla, prófessor Walther, hefir haft mjög sterk áhrif á hann. En þeir, sem furða sig á því, hve nákvæmlega hann fylgdi stefnu þessa skóla í öllu, munu naumast hafa skilið lund hans og upplag til hlítar.

Hann umskapaðist ekki á neinn óeðlilegan hátt við veru

sína þar. Sá andlegi þroski, sem hœfileikar hans fengu þar, var að öllu leyti eðlilegr eftir því, sem mér hefir skilizt, — svo eðlilegr, að hefði hann aldrei þangað komizt, efast eg mikillega um, að hið bezta og einkennilegasta í eðlisfari hans hefði nokkurn tíma fengið að njóta sín. Hinn andlegi þroski hans hefði þá aldrei orðið annar eins og hann varð.

Hvers vegna? Af því að hœfileikar hans voru honum þannig frá upphafi gefnir, að annað eins loftslag var honum nauðsynlegt og það, sem hann kom inn í í St. Louis, til þess hann í lífinu fengi að njóta þeirra í fullum blóma. Hugarstefna séra Páls heitins mun hafa verið þannig, frá því sálarlíf hans tók að vakna, að hún ósjálfrátt og óafvitandi þráði að komast inn í þann andans heim, sem St. Louis-skólinn opnaði fyrir honum.

Hvernig var sá heimr? Það var heimr trúarinnar,—hreinn og heitr, þar sem sagt var við hvern, sem inn kom: Leystu skó þína af fótum þér, því staðrinn, sem þú stendr á, er heilagr. Allt verðr þú að leggja í sölurnar, og hvern afkima hugsunar þinnar og hjarta þíns verðr þú að helga köllun þinni, þeirri, sem þú hyggst á hendr að taka, — œðstu og dýrðlegustu köllun lífsins. Svo var það tímabil mannkynssögunnar dregið fram með lifandi myndum og eldlegri andagift, þegar sterkust siðferðisleg umbrot hafa verið í heiminum,—siðabótaröldin, og allt stríðið og baráttan, sem þá kom hinum andlega heimi til að skjálfa og nötra og gjörði einstaka menn að þeim andans og trúarinnar hetjum, er síðan eigi hafa fundið jafningja sína, lifað upp aftr og látið koma af stað sömu andlegu umbrotunum bæði hjá einstaklingnum og í félagslífinu. Allt miðaði til þess að gjöra menn að sterkum, óbilandi stríðsmönnum fyrir málefni trúarinnar, er stœði frammi fyrir heiminum eins og Lúter frammi fyrir ríkisdeginum í Worms og segði: Hér stend eg, eg get eigi annað; guð hjálpi mér!—amen.

Þar sem mikil alvara var fyrir, sterk siðferðisleg tilfinning og einbeittr vilji, sem ekki hopar á hæl, var að búast við því, að menn vöknuðu þarna. Allt þetta var nú fyrir hjá séra Páli heitnum, þegar hann kom þangað. Alvara hans var einhver hin dýpsta, sem eg hefi orðið var við hjá nokkrum manni. Hin siðferðislega tilfinning hans var framúrskarandi næm. Og vilji hans svo einbeittr, að hann sá ekki torfœrur.

Mér kemr til hugar dómr mjög gáfaðs manns um þennan skóla. Hann hafði verið þar í þrjú ár samtíða séra Páli heitnum, útskrifazt um leið og hann, og er nú prófessor við ríkisháskólann í Minnesota: „það, sem við höfðum upp úr verunni þar, var ekki þekkingin“, heyrði eg þennan mann sjálfan segja. „Hana hefðum við getað fengið eins mikla eða jafnvel meiri annarsstaðar. En það var hugmyndin um prestinn, hvernig hann ætti að vera bæði innvortis og útvortis, sem próf. Walther gaf okkr og var hið langbezta, sem við fórum þaðan burt með. þessi hugmynd um prestinn, sem þar varð að lífi og blóði innan í okkr, hafði langt um meira gildi en allt hið annað. Og hana veit eg ekki til að við hefðum getað fengið jafn-hreina og göfuga á nokkrum öðrum stað.“

Af henni hafði séra Páll heitinn þorláksson fengið sinn skerf.

þegar eg nýkominn hingað til landsins, 17 ára gamall unglingr, heyrði hann prédika guðs orð fyrir ofrlitlum hóp af löndum sínum, sem þá hafði hreiðrað sig niðr í furuskógunum ómælanlegu í Wisconsin, fannst mér, að eg engan hafa heyrt tala eins og hann. það var sama sumarið og hann útskrifaðist frá St. Louis.

það lá ekki í neinni sérstakri mælsku. Eg hafði heyrt miklu mælskari presta. Hann var að sönnu maðr allvel máli farinn; honum var létt um að láta hugsanir sínar í ljósi. Og hann var sítalandi, þegar hann hafði einhvern að tala við. En hann hafði ekki þann hœfileik, að klæða hugsanir sínar í skrúð.

það var mikið fólgið í alvörunni, en mest held eg í því, að mér fannst, að þarna vera maðr, sem nýlega hefði fundið nýjan heim. Eg fann, að hann kom fram með nýjan skilning á trúarlegum og kirkjulegum efnum, sem eg ekki þekkti áðr, en sem samrýmdist því þó og útilokaði það ekki. Hann lyfti því upp í hærra veldi, gjörði guðs orð enn þá helgara og brýndi miklu sterklegar fyrir mér en nokkur hafði áðr gjört skyldu mannsins til að beygja sig fyrir því í einu og öllu. Eg hafði ekki skilið áðr, hvað það þýddi að vera lúterskr maðr.

Tilheyrendr séra Páls heitins, hvort sem þeir sátu margir saman við guðsþjónustu, eða þeir voru einn eða tveir heima hjá honum, fengu mjög sterka tilfinning af, að þarna hefði þeir

mann fyrir sér, sem væri öldungis viss í sinni sök,—mann, sem efagirni þessarar aldar hefði látið öldungis ósnortinn. Í hverju smáatriði var stefnan ákveðin, sjálfri sér samkvæm, og skoðunin svo föst, að ekki var að tala um neitt hvarfl, hvorki til hægri né vinstri.

Hann var ætíð reiðubúinn til að verja skoðun sína og til að segja ólíkri eða gagnstæðri skoðun stríð á hendr. Hann var að eðlisfari lítið umburðarlyndr maðr. Þeim, sem átti tal við hann, fannst ætíð, að í hans huga myndi að eins ein skoðun eiga rétt á sér,—sú, sem hann sjálfr hafði. Hann var þá öldungis óþreytandi í viðreigninni við mótstöðumann sinn. Hann var ákafr og þó stilltr. Eg vissi honum aldrei renna í skap, hvað sem við hann var sagt. Hann var þá einmitt stilltastr og kaldastr, þegar andmálsmanni hans var mest farið að hitna. Hugsun hans var stöðug og stillt, og hann hafði gott lag á að liða hugsunarfræðislega í sundr flókin spursmál.

Það var bjart yfir honum, svipurinn óvenjulega hreinn; —maðr þurfti ekki að virða hann lengi fyrir sér til að komast að þeirri niðrstöðu, að hann væri óvenjulega góðr maðr. Hin sterku orð og ákveðnu skoðanir hans annaðhvort drógu menn að sér eða hrundu mönnum frá sér— allt eftir því, hvernig á var statt fyrir mönnunum sjálfum.

Þau andlegu áhrif, sem séra Páll heitinn hafði á hið kirkjulega líf Vestr-Íslendinga, heyra þeim tíma til, er hann dvaldi í Nýja Íslandi. Þau kirkjulegu umbrot, sem þar áttu sér stað meðal manna og skiftu fólki þar um tíma í tvo andvíga flokka, liggja, ef til vill, of nærri oss í tímanum til þess menn geti skilið þau til fulls og fellt yfir þeim réttlátan dóm. En eg fyrir mitt leyti skoða þau ætíð sem eitt hið merkilegasta atriði í kirkjusögu vor Íslendinga. Þessi umbrot hafa borið blessunarríka ávexti fyrir hið kirkjulega líf vort. Menn vöknuðu upp til nýrrar kirkjulegrar meðvitundar. Og menn fengu betri skilning á því eftir en áðr, að það er lífsskilyrði fyrir söfnuðina að halda fast við hina lútersku trúarjátning vora.

Og það var nú einmitt aðalatriðið fyrir séra Páli heitnum. Hann vildi umfram allt byggja upp *lúterska* söfnuði meðal íslenzks kirkjufólks hér í landinu. En hann fór nokkuð geist. Það er litlum vafa bundið, að safnaðarlögin hans voru of megn

fœða fyrir veiklaðan meltingarkraft. Hann beitti ekki þeirri lipið og varfœrni, sem ætíð er nauðsynlegt í þessum efnum. Það var eðlilegt, að hann væri misskilinn, einkum vegna þess, að honum var of gjarnt til að leggja mikla áherzlu á smáatriði og gjöra þau að grundvallaratriðum, er hlyti að skilja bróður frá bróður í kirkjulegu og trúarlegu tilliti. Eu sprottið var þetta ætíð af lotning hans fyrir sannleikanum, sem hann vildi aldrei víkja þversfótar frá.

Starf hans og dvöl í Nýja Íslandi sannfœrði hann betr og betr um, að Íslendingar þar ætti litla framtíð fyrir höndum. Það væri því lífsskilyrði bæði í andlegu og líkamlegu tilliti fyrir þá að losast þaðan burt. Þeirri skoðun sinni hélt hann fram, hvað sem hver sagði. Nýlendusvæði leitaði hann sjálfr uppi með fram Pembinafjöllunum í Norðr-Dakota, og af hans hvötum flutti þangað fjöldi fólks frá Nýja Íslandi. Það heyrði eg hann sjálfan segja, að hann hefði beðizt fyrir þar sem hann nam staðar á þeirri landskoðunarferð sinni, — beðið þess af öllu afli sálar sinnar, að fyrirtœkið, sem hann hafði í huga, mætti blessast og að þetta svæði mætti verða að blómlegri og farsælli Íslendingabygð. Reynslan hefir sýnt, að sú bœn hefir verið heyrð.

En þegar hingað var komið, hve aumlega statt var þá fólkið eftir allar hörmungarnar í Nýja Íslandi, allslaust, hungrað og klæðlaust, ekki hafandi neitt af öllu því, er nýlendumenn þarfnast. Og það, sem aumast var af öllu, hugrinn horfinn og kjarkrinn bilaðr. Það má nærri geta, hve hjartað hefir brunnið í brjósti annars eins leiðtoga og séra Páll heitinn var. Enda gjörir hann þá það, sem fáir myndi hafa gjört nema hann. Suðr um allt Minnesota-ríki ferðast hann meðal norsku safnaðanna þar og safnar gjöfum, bæði í peningum og gripum og matvöru, handa hinum fátœku löndum sínum. Og þegar það hrekkr eigi, fær hann meira að láni, því allir trúðu honum og vissu, að hann myndi gjöra skil, ef allt gengi bærilega og honentist aldr. Má nærri geta, að hann hefir tekið sér slíkt ferðalag all-nærri, ekki sízt þar sem hann um þessar mundir var farinn að þjást svo mjög af sjúkdómi þeim, er svo snemma lagði hann í gröfina. Vér myndum kynoka oss við að leggja upp í annað eins ferðalag nú, þótt vér værum heilir á hófi.

En hann elskaði drottin sinn, og hann elskaði hina bágstöddu landa sína, — lagði svo allt í sölurnar, hvort sem vel var talað um hann eða illa.

Mér virðist séra Páll heitinn Þorláksson vera sá Íslendingr, sem á áþreifanlegastan og átakanlegastan hátt hefir lagt lífið í sölurnar fyrir málefni drottins af þeim, sem starfað hafa í nútíðarkirkju þjóðar vorrar. Hann var að mörgu leyti ólíkr flestum Íslendingum. Hann var þá einnig ólíkr þeim og einstakr í þessu.

Guði sé lof! Hann hefir gefið málefninu hans sigr fram á þennan dag. Hann, sem forðum lét blóð píslarvottanna verða að frjóvgandi dögg fyrir akr guðs ríkis, hefir líka lagt blessun sína yfir píslarvættisdauða hans, svo að starf hans, líf hans og dauði hefir borið ávöxt fyrir hinn andlega og kirkjulega jarðveg meðal vor. Agnúarnir hafa fallið burt, ójöfnurnar slétzt, misskilningrinn horfið; en andi hans og aðalstefna er, og hlýtr að vera og verða, vor andi og vor stefna, því hann var sannarlegt barn vorrar evangelisku lútersku kirkju.

---

## Davíðs sálmr 58.

Eftir séra VALDEMAR BRIEM.

Lag: Syrgjum ekki sáluga brœðr.

1. Er réttvísin rómsnjalla þögnuð?
og rangindin hrekkvísu mögnuð?
Er sanngirnin farin og flúin?
og friðr í ofríki snúinn?

2. Er sannleikr hafinn úr hjarta?
og hýsir það lygina svarta?
Er guðleysið sagan, sem gengr?
er guð ekki kunnugr lengr?

3. Hví byrgja menn aftr sitt eyra?
og ei vilja sannleikann heyra?
Hví opna þeir munn til að mæla,
sem mest vilja svíkja og tæla?

4. Ó, minnstu, guð, meinanna þungu,
og magnlaust gjör eitrið á tungu;
gjör oddlausar örvarnar sáru
og eggjarnar deyf, er oss skáru.

5. Lát ranglætið rammeflda þagna
og réttlætið sigrinum fagna.
Þín sannindi sjáanleg gjörðu,
og sýn, að þú dœmir á jörðu.

---

## Athugasemd

frá séra N. Steingrími Þorlákssyni.

---

Sá, sem rœðan í Desember-nr.-inu er eftir, er prestr við kirkjuna í Oslo í Kristjaníu, mjög merkr kennimaðr, eins og ráða má af því, að hann flytr rœðuna við setning hinnar miklu almennu norsku prestastefnu, enda er hann meðritstjóri hins unga, en þó þegar merka tímarits: „*For Kirke og Kultur*“, sem byrjaði að koma út um áramótin í fyrra. Hinn ritstjórinn er lýðháskólakennarinn nafnkunni, Christopher Bruun, er varð prestr fyrir rúmu ári síðan, 30 árum eftir að hann varð guðfrœðiskandídat.

Þessi rœða eftir Klaveness prest er óneitanlega orð í tíma talað einnig vor á meðal. Ekki svo að skilja, að mikið beri á kvíða og ótta hjá oss Íslendingum almennt vestan hafs og austan fyrir framtíð kirkjunnar. Mér dettr ekki í hug að segja, að það sé, eins og á stendr, nokkur kostr hjá oss eða að vér vegna þess stöndum að því leyti framar brœðrum vorum í Norvegi. Fjarri því. Kvíðaleysið og uggleysið, sem á sér stað hjá oss yfir höfuð, hygg eg einmitt sé merki hins andlega sjúknaðar, sem að oss gengr. — Skal eg, ef guð lofar, gjöra mig skiljanlegri seinna. — En standi svona á, mætti búast við, að herhvöt Klaveness prests til brœðra sinna í Norvegi fœri fram hjá oss almennt og fengi engar undirtektir í hjörtum vorum. En þótt hún sem herhvöt fari fram hjá oss, er ekki ólíklegt, að hún veki einhverja góða og gagnlega hugsun.

Það er eitt atriði, sem áherzla mikil er lögð á og sem eg vil

sérstaklega leyfa mér að minna á, — atriði, sem nauðsynlegt er fyrir oss, íslenzka presta vestan hafs og austan, að gjöra oss ljósa grein fyrir, enda fyrir hverja, sem vinna vilja að málefni kristindóms og kirkju, og það er það, með hverju sigrinn er unninn í baráttunni fyrir þessu málefni. Mönnum er gjarnt, ekki sízt oss Íslendingum í seinni tíð, bæði prestum og öðrum, að líta á hið ytra eins og í því væri frelsi vort fólgið, á ytra fyrirkomulag, á formur og formúlur. Ef þesskonar allt kæmist í gott lag, er litið á eins og þá myndi upp renna gullöld fyrir íslenzku kirkjuna. En það er síðr en svo, að sigrinn fyrir málefni drottins sé aðallega undir nokkru þesskonar kominn, heldr er hann kominn undir *trúnni, sem af guði er fædd.* Þar liggr sigraflið og sigrskilyrðið. Ef vér eigum þessa trú, munum vér sigra; en ef vér eigum hana ekki og eignumst hana ekki, munum vér falla og nafnið guðs fyrir vora skuld verða lastað meðal heiðingjanna. Eigum vér þessa trú? Það er spurningin. Er vor trú að eins lærð af bókum, eða er hún af guði fædd? Eg hygg, að hjá oss sé þörf á *trúar*-endrbót, eða ef til vill réttara: *trúarfæðing* í hjörtum vor prestanna og allra yfir höfuð, sem að málefni kristindómsins vilja vinna. Verði það, þá rennr upp gullöld fyrir vora íslenzku kirkju, vegna þess að þá fær Jesús Kristr, konungr kirkjunnar, að komast að með afl eilífs lífs og blessun þá, er hann hefir yfir að ráða, án þess tekið sé fram fyrir hendrnar á honum af ímynduðum hyggindum hins náttúrlega manns í oss.



*Tjaldbúðin* — kirkja hins nýja íslenzka safnaðar í Winnipeg, sem séra Hafsteinn Pétrsson þjónar — var fullgjörð á miðri jólaföstunni og vígð í viðrvist fjölda fólks sunnudaginn 16. Desember (3. í aðv.). Prestr safnaðarins framkvæmdi vígsluna samkvæmt hinu vanalega kirkjuvígsluformi voru og flutti síðan vígsluræðu út af Opinb. 21, 3 („Þetta er tjaldbúð guðs meðal mannanna“ o. s. frv.). Tveir af prestum kirkjufélagsins, sem viðstaddir voru, séra Jónas A. Sigurðsson og ritstjóri *Sam.*, tóku með séra Hafsteini þátt í vígsluathöfninni. Í lok guðsþjónustunnar las einn safnaðarfulltrúanna upp sögu hins unga safnaðar. — Við kvöldguðsþjónustuna í „Tjaldbúð-

inni" sama dag prédikaði séra Jónas A. Sigurðsson, og fór þá fram altarisganga.

„Tjaldbúðin" er krosskirkja, með fjórum stöfnum og litlum turni upp úr miðjunni, þar sem krossinn kemr saman. Stœrð hennar er 52 fet á hvern veg utanmáls, þar sem hún er lengst og breiðust. Kirkjustœðið er eins og áðr hefir verið frá skýrt, á horninu á Sargent og Furby strætum, suðaustanmegin. Við þá hlið eða þann stafn kirkjunnar, sem veit út að Sargent str., er pallr fyrir prest og söngflokk með sínu smáherbergi hvorum megin. Dyr kirkjunnar eru tvær og eru þær til hliðar á sama stafninum inn frá klefum þeim, er þegar voru nefndir. Sætin eru í hálfhringjum innar af rœðupalli, en gangar tveir mitt á milli hliðarveggja og miðs hússins. Kirkjan er upphituð með stórum kjallaraofni (*furnace*).—„Tjaldbúðin" er snotrt hús og vel vandað. Hefir hún kostað $2500 auk lóðarinnar, sem hún stendr á, en lóðarverðið er $400. Fyrir smíð kirkjunnar hefir staðið hr. Halldór Halldórsson.

---

Á fjölmennum fundi, sem Lincoln-söfnuðr í Minnesota (í prestakalli séra Björns B. Jónssonar) hélt 12. Des., var það í einu hljóði samþykkt, að söfnuðrinn gengi í hið ev. lút. kirkjufél. Ísl. Vestrheimi.

---

Um nokkur næstliðin ár hefir það tíðkazt í sunnudagsskóla *Fyrstu lútersku kirkju* í Winnipeg, að hafa dálítið hátíðarhald seinasta sunnudaginn í árinu. Hefir það vanalega verið fólgið í því, að einn kennarinn eftir annan hefir kallað „klassann" sinn fram og látið hann allan í einu lesa upp utanbókar lengri eða styttri biblíukafla, sálm eða vers; sálmar hafa enn fremr verið sungnir og stutt ávarp fram flutt af forstöðumanni skólans. — Við áramótin síðustu var hátíðarhald þetta talsvert öðruvísi en áðr hefir tíðkazt, enda ekki haft á hinum eiginlega sunnudagsskólatíma eins og áðr, heldr á sama tíma og kvöldguðsþjónustur vanalega fara fram. Var sá tími valinn til þess að gefa sem flestu fólki utan sunnudagsskólans tœkifœri til að sœkja samkomuna. Kirkjan var líka troðfull þetta kvöld. Prógrammið fyrir samkomuna var þetta: 1. *Introitus* (þ. e.: hin vanalega inngangs-guðsþjónusta s.d.skólans): Skólinn allr. 2. Söngr („Smala-

drengrinn“ eftir Steingrím Thorsteinsson): Mörg sunnudagsskólabörn. 3. *Recitation* („Fýkr yfir hæðir“ eftir Jónas Hallgrímsson: Stúlka í A-„klassa“. 4. *Solo* („Meyjan af ókunna landinu“ eftir Schiller, þýtt af Stgr. Thorst.): Ein af kennurum skólans. 5. Lestr (Ævintýrið „Rauðu skórnir“ eftir H. Chr. Andersen): Önnur af kennurunum. 6. Söngr („Fjall við fjörð“ eftir Hannes Havstein): Mörg sunnudagsskólabörn. 7. Ávarp frá forstöðumanni skólans (presti safnaðarins). 8. *Duet* („Systkinin“ eftir Miller, þýtt af séra Mattíasi Jokkumssyni): Tvær stúlkur í sd.skólanum. 9. *Recitation* („Sýnir Ezekíels“ eftir séra Valdemar Briem): Sjö stúlkur í sd.skólanum — sitt versið hver. 10. Söngr („Klukknahljóð“, þýzkr þjóðsöngr, þýddr af séra V. Br.): Nokkur sd.skólabörn. 11. Söngr („Jólasólin“[1]— ný ljóð, orkt fyrir samkomu þessa af Einari Hjörleifssyni): Mörg sd.skólabörn. 12. *Finale* (*selection* eftir Mozart) —orgelspil. — Í ávarpi forstöðumanns var aðallega lagt út af þjóðsögninni: „Þokan er kongsdóttir í álögum, og kemst úr álögunum, þegar allir smalar taka sig saman um að blessa hana“.

---

**Aldamót,** IV. árg., eru komin hingað vestr frá Reykjavík, þar sem þau nú eins og áðr hafa prentuð verið. Efnið í þessum síðasta árgangi ritsins er: *Auk þú oss trúna*—ræða eftir ritstjóra *Sam.*; *Sársaukinn í lífinu*—fyrirlestr eftir séra Friðrik J. Bergmann, sem er ritstjóri *Aldamóta; Hvað er sannleikr?* —fyrirlestr eftir séra Steingrím Þorláksson; *Mannsaldrarnir* —kvæði eftir séra Valdemar Briem; *Undir linditrjánum*— smáritstjórnargreinir. — Fyrirlestr séra Friðriks um „sársaukann í lífinu“ er lang-lengsta og mesta ritgjörðin.

„Aldamót“ þessi síðustu eru að fá til kaups hjá ritstjóranum, séra Fr. J. Bergmann á Garðar, N. D., og hér í Winnipeg hjá báðum prestum kirkjufélagsins og sömuleiðis í bókaverzlan hr. Vilhelms Pálssonar. Verð ritsins er eins og áðr 50 cts., og rennr ágóðinn af sölunni í skólasjóð kirkjufélagsins.

Í einni af ritstjórnargreinum þeim, er standa seinast í þessum árgangi *Aldamóta*, er Brynjólfr Jónsson á Minnanúpi kallaðr „*ómenntaðr* hagyrðingr“ (á bls 131.), og hefir séra Friðrik beðið oss að geta þess, að þetta sé pennavilla; í staðinn fyrir

1) Prentað fremst í þessu blaði.

„ómenntaðr“ eigi að standa „óskólagenginn“. Maðr sá, sem þar er um að rœða, er vitanlega maðr vel menntaðr, og séra Friðrik viðrkennir það eins vel og nokkur annar.

---

Núna, undir lok Janúarmánaðar, kom skólamálsnefnd kirkjufélagsins saman á fund hér í bœnum. Skólasjóðrinn hefir aukizt um nærri því 100 dollara síðan á kirkjuþingi í sumar, og er nú orðinn $2100.44 að upphœð.

---

Prestaskóli norsku sýnódunnar í Robbinsdale hjá Minneapolis brann til kaldra kola hinn 11. þ. m. Það var vönduð og stór bygging að eins fárra ára gömul. Í þeim bruna fórst meðal annars bókasafn tilheyranda einum af kennurum skólans, próf. Stub, 5 þúsund dollara virði. Var það votryggt að nokkru leyti, en annað ekkert, sem fór í þessum eldsvoða, — Áðr, fyrir fám árum, missti sama kirkjufélag *Luther College* í Decorah á sama hátt, en það reis brátt úr rústum, eins og fuglinn fönix úr öskunni, enn fegra og glæsilegra en áðr, og er vonanda, að eins vel gangi með endrreisn skóla þess, er nú er nýbrunninn. — Norska synódan hefir haft ákaflega mikinn framgang nú upp á síðkastið, komið á fót ýmsum nýjum mikilfengum menntastofnunum, þar á meðal *Pacific University* vestr við Kyrrahaf, í Tacoma, Wash.

---

Samkvæmt síðasta fólkstali, frá 1890, sem tekið hefir verið í Bandaríkjunum, eru (eða voru þá) þar í landi alls 1,535,597 Skandínafar (þ. e. Svíar, Norðmenn og Danir). Eru þar með taldir þeir, sem fœddir eru hérna megin hafs af skandínaviskum foreldrum. Af þessum 1,535,597 eru 596,131 Norðmenn, 213,036 Danir; hitt allt Svíar. Eitt norskt kirkjublað tekr fram, að að eins hér um bil helmingr þessara Norðmanna standi í lútersku kirkjunni. Af Svíum mun viðlíka margt tilheyra lúterskum söfnuðum, en af Dönum tiltölulega langfæst. — Tvö dönsk lútersk kirkjufélög eru sem stendr í landinu, annað fylgjanda andastefnu Grundtvigsmanna, hitt í anda „innri missíónarinnar“ svo kölluðu í Danmörk. Í báðum þeim félögum eru samtals að eins 15,550 fermdir safnaðarlimir. Er það nauða-lítið í samanburði við alla dönsku höfðatöluna — 213,036.

Tala fermds fólks í öllum lúterskum kirkjudeildum hér í andi (Bandaríkjum og Canada) er nú 1,338,134 (að því er dr. Jakobs í Philadelphia telst til). það er 66,577 fram yfir það, sem var næsta ár á undan. — Slóvakar, þjóðflokkr slafneskr frá norðrhluta Ungverjalands, hafa á árinu, sem leið, myndað dálítið nýtt lúterskt kirkjufélag í Bandaríkjum.

Lúterskir prestaskólar eru nú orðnir 13 að tölu í Bandaríkjunum, *college*-skólar 20, œðri kvennaskólar (*young ladies' seminaries*) 6, akademí 22.

Lútersk kirkjublöð, sem nú er talið að komi út í Ameríku, eru 151. Langflest þeirra koma út á ensku og þýzku, þar næst á norsku og sœnsku. Dönsk eru talin 6, 4 finnlenzk, 2 ungversk, 1 frakkneskt, 1 íslenzkt.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; fyrsti ársfjórðungr 1895.

9. lexía, sunnud. 3. Marz: Uppvakning Lazarusar: Jóh. 11, 30—45.
10. lexía, sunnud. 10. Marz: Hinn auðugi ungi maðr: Mark. 10, 17—27.
11. lexía, sunnud. 17. Marz: Sakeus tollheimtumaðr: Lúk. 10, 1—10.
11. lexía, sunnud. 24. Marz: Hreint líf: Róm. 13, 8—14 (bindindislexía);
eða: Útsending hinna 70: Lúk. 10, 1—9 (kristniboðslexía).

---



**Kvittanir:** *Til skólans* $7.70 (nl. pr. Snorra J. Reykjalín $4.40 og $3.30 pr. Gísla Egilsson). Þetta er partr af þeim $35.00, sem Lúterssöfnuðr gaf til skólasjóðs síðast liðið sumar. Enn fremr til skólans $1.00 frá S. Jónssyni, p.t. Wpg, og frá Þorsteini Oddssyni, Selkirk, $1.00.

*Til bókasafnsins:* Eiríkr H. Bergmann, Garðar, $5.00.




„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.